


III. Winnipeg, Man. Nr. 4.

# *Til kaupenda.*

Heiðruðu kaupendur Dagsbrúnar. Eftir að ég var fluttur hingað upp til Winnipeg, fór það að verða ljóst, að það var óhagræði mikið, að prenta blaðið Dagsbrún niður í Nýja Íslandi, og með því að okkur herra Gísla M. Thompson var örðugt um fjárhaginn, þá fór svo, að Únítara-söfnuðurinn í Winnipeg tók að sér útgáfu Dagsbrúnar. Blaðið var í skuld töluverðri við herra G. M. Thompson, og tók hann útistandandi skuldir blaðsins, upp að nýjári 1895, upp í það sem hann átti hjá blaðinu. Allir þeir sem eiga óborgað blaðinu að einhverju leyti, fram til 1. Jan. 1895, eru því beðnir að greiða þær skuldir til hr. G. M. Thompsons, Gimli, Man. Hann hefir mjög heiðarlega unnið að blaðinu, og án hans hefði það ekki komist á fót. Þótt við margskonar örðugleika væri að stríða, þá hefir hann klofið þá betur en nokkrar líkur voru á. Hann hefir gert það, ekki í gróðaskyni, heldur af áhuga fyrir málefninu, sem vér allir viljum vinna að: leysing landa vorra úr ánauð bókstafs og djöflatrúar. Hann á því bestu þakkir skilið, og ég fyrir mitt leyti er honum hjartanlega þakklátur fyrir samvinnuna; hún hefir æfinlega gengið vel. Ég tek það því upp aftur, að ég óska og vona að menn láti hann njóta þess, og borgi honum skilvíslega. Hann á þar töluvert á hættu sem fátækur maður.

Hvað blaðið snertir, þá getur það nú betur fylgt tímanum, og

vona ég að kaupendum fjölgi við flutninginn. Hér eftir verður eigi hætt við að útkoma blaðsins frestist, eins og stundum átti sér stað áður, vegna fjárskorts og annara örðugleika.

MAGNÚS J. SKAPTASON

* * *    * * *    * * *

Eins og kaupendur sjá af því sem hér að framan er sagt og eins af auglýsing þeirri, sem stóð í Heimskringlu 7. þ. m., hefir unitarasöfnuðurinn í Winnipeg tekið að sér útgáfu þessa blaðs, í bráðina að minsta kosti. Um ástæður fyrir því þurfum vér ekki fara mörgum orðum; þær eru skýrðar hér að framan. — Það er að sjálfsögðu töluverður ábyrgðarhluti og töluverð áhætta fyrir jafn fámennan söfnuð, að takast á herðar að ábyrgjast útgáfu blaðsins, þar sem vitanlegt er, að blaðið hefir að undanförnu borgast fremur tregt; en þrátt fyrir það má segja, að málið fengi mjög góðar undirtektir hjá söfnuðinum, sem umsvifalítið sýndi það með atkvæðagreiðslu, að hann var reiðubúinn að halda þessu mjög svo nauðsynlega fyrirtæki áfram, og leggja sér þá byrði á herðar, sem þó öllum var ljóst að gat orðið talsvert þung. Auðvitað er það komið undir kaupendunum; þeir geta ef þeir vilja og hafa áhuga fyrir málefninu, létt byrðina að mestu eða öllu af söfnuðinum (að fyrirhöfninni undanskildri), því að blaðið hefir meira en nægan kaupendafjölda til að bera sig sjálft, ef upp væri borgað, og vér vonum, að þeir vilji sýna í verkinu, að þeir virði þessa drengilegu framkomu safnaðarins, með því að styðja að útbreiðslu blaðsins og góðum skilum á andvirði þess. Það mun flestum unitörum vera nokkurnvegin ljóst, hve mikla þýðingu blaðið hefir fyrir þetta mikilsvarðandi málefni vort, og leyfum vér oss því, sem áhugasamur hluti hinnar unitarisku heildar, að skora á alla sem lið vilja veita, að láta það nú í té, og vinna sameiginlega að sameiginlegum hagsmunum. Nefndin hefir gert tilraun til að endurbæta blaðið, og vonum vér að kaupendur sýni, að þeir virði þá viðleitni vora, með því að senda sem allra fyrst eitthvað af andvirði blaðsins til M. PÉTURSSONAR, 601 Ross Avenue, eða P. O. Box 305., Winnipeg, Man.

*ÚTGÁFUNEFNDIN.*

E. ÓLAFSSON,
skrifari.

# Unitarismus.



Þeir eru svo margir, sem hafa kvartað undan því, að þeir vissu ekkert, hvað það væri, sem Unitarar tryðu, eða héldu fram, og viljum vér því setja hér fram nokkrar skoðanir, sem meginþorri þeirra aðhyllist.

Fyrst viljum vér telja *FRELSI* til að rannsaka og prófa trúna. Þeir trúa, að guð sá, sem er orsök og uppspretta trúarinnar, sé einnig orsök og uppspretta allrar skynsemi. Þeir trúa því, að með engu öðru móti sé hægt að hreinsa villurnar úr trúbrögðunum, en með rannsókn, með því að neyta skynseminnar með fullu frelsi. Sökum þess þurfa menn að hafa fult frelsi til þess, að rannsaka alt það, er að trúnni lýtur, fult frelsi til þess, að standa á eigin fótum, að dæma sjálfir án þess að láta teymast af kyrkjuþingum, eldri eða yngri, prestastefnum, játningum, kyrkjufeðrum eða klerkum, sem alt saman, einn með öðrum, hafa verið svarnir óvinir frjálsrar rannsóknar fyr og nú.

*ENGIN TRÚARJATNING.* Unitarar hafa enga sérstaka trúarjátning, sem heimtað sé að hver og einn bindi sig með svardögum eða undirskriftum til að halda og samþykkja. Væri svo, þá væri öllu rannsóknarfrelsi lokið, og svo er hitt, að það er nær því ómögulegt, að tveim mönnum sýnist algerlega eitt um hið sama mál, og því getur enginn maður búið út þá játning, sem annar sé fyllilega samþykkur í öllum greinum, og svo er hið þriðja það, að trúarjátning sú, er vér samþykkjum í dag, gæti ekki verið sönn játning vor á morgun, er vér hefðum fengið betri og fullkomnari þekkingu á þeim málum, því að trúnni og trúarþekkingunni fer fram eins og hverju öðru. Svo kendu þeir Kristur og postularnir enga trúarjátning og ekki heldur höfðu hinir fyrstu kristnu menn neina trúarjátning. Þá sýnir einnig og sannar saga mannkynsins það, að trúarjátningar og trúarkreddur hafa jafnan vakið ófrið og styrjaldir í kristnu mannfélagi, fjölgað trúflokkum, vakið ofsóknir og staðið í vegi fyrir öllum þrifum og framförum manna. En vér höfum annað *betra.* Þó að vér enga trúarjátning höfum, eða fastákveðnar trúarsetningar, er allir þeir, sem í félagsskap vorum eru, séu skyldir að játa, þá höfum vér þó sameiginleg grundvallaratriði, og meginreglur einfaldar og óbrotnar, er vér fylkjum oss undir. Þær skoðanir, sem öllum oss eru sameiginlegar, eru þessar: Að trúin má ekki vera

skynseminni gagnstæð, að skynsemin og vor óspilta siðferðislega meðvitund, verður að vera æðsti dómstóll í leitun vorri eftir trúarlegum sannindum.

*GUÐ.* Vér trúum að guð sé einn, en ekki tveir eða þrír, eða í þrennu lagi. Vér trúum á eina skyni gædda orsök og upphaf hlutanna, en ekki blindan vitundarlausan kraft. Að þessi vera, eða orsök, sé æðri en vorar háfleygustu hugmyndir, vitur, heilagur, réttlátur, góður, fullkominn í alla staði. Að í honum felist alt það, sem Kristur skildi við orðið "Faðir" og að hann geti samkvæmt eðli sínu ekki látið vera, að elska öll sín börn bæði þessa heims og annars.

*INNBLÁSTUR.* Vér trúum því, að innblástur guðs anda geti ekki verið bundinn við vissa bók eða þjóð eða tíma, heldur sé hann nú hér hjá oss, alveg eins, ef ekki fremur, en fyrir tveim til þrem þúsundum ára á Gyðingalandi. Spekinnar, sannleikans, fegurðarinnar og kærleikans ótæmandi andi, tekur sér bústað í sálu hvers þess manns, sem móttækilegur er fyrir hann.

*OPINBERUN.* Vér trúum, að opinberun sé einlægt framhaldandi, vaxandi, breytileg, að hún komi fyrir á öllum tímum, í öllum löndum, hjá öllum þjóðum, á ótal vegu, í náttúrunni, sögunni og sálu mannsins, en aldrei á yfirnáttúrlegan hátt. Að það sé fjarstæða mesta, að ætla, að finna opinberunina í bók einni, því að allur hinn æðsti siðferðislegi og andlegi sannleikur, sem mannkynið hafi öðlast, sé opinberun, og að það sé svo langt frá því, að vér séum búnir að öðlast alla opinberun, að vér erum ekki komnir lengra, en að sjá bjarma fyrir henni í morgunsárinu. Sólin á eftir að renna upp á loftið.

*BIBLÍA.* Vér skoðum biblíuna sem hverja aðra bókmenta sögu. Margt í henni er þjóðsögusafn Gyðinga, margt er skáldskapur og oft dásamlega fagur. En í henni eru líka ljótar og siðferðisspillandi sögur og hugmyndir. Hún lýsir því vel, hvernig trú og hugmyndir Gyðinga hafa þroskast, hvernig þær hafa verið ofur einfaldar og barnalegar í fyrstu, en svo þroskast, eftir því sem þjóðin þroskaðist að viti og þekkingu. Alt það í henni, sem er satt og elskulegt, viljum vér viðurkenna en hinu viljum vér forkasta.

*JESÚS KRISTUR.* Vér trúum, að allir menn séu guðs synir og dætur, og Jesús Jósefsson einn hinna bestu, fyrir hreinleika hjarta síns og hina stöku mannást. Vér getum því fremur öðrum kallað hann guðs son, guðdómlegan, en ekki guð. Vér eigum að virða hann og elska hann og breyta eftir kenningum hans, en alls ekki dýrka hann sem guð; enda var það ein aðal-kenning hans: að

vér skyldum dýrka föðurinn einan, Vér getum og eigum að hafa hann sem fyrirmynd, og keppa eftir að öðlast hreinleika hjartans, trú á sannleikann og skylduna, eins og hann; vér eigum að afneita sjálfum oss, sem hann; vera auðmjúkir og þolinmóðir, sem hann; hata hræsni og lýgi, sem hann; vera hugrakkir og ótrauðir að berjast fyrir sannleikanum, sem hann. Eitt af grundvallaratriðum vorum er því það, að fylgja Kristi.

*AFTURHVARF.* Vér erum allir ófullkomnir, og því þurfum vér sí og æ að snúa frá röngu og leita hins rétta.

*ENDURFÆÐING.* Þeir sem verða betri menn, eru einlægt að endurfæðast, í andlegum skilningi, og vér trúum því, að vér eigum til eilífðar að halda áfram að sigra einn brestinn á eftir öðrum, að verða einlægt betri og fullkomnari.

*SÁLUHJÁLP.* Vér trúum, að göfgi andans og athafnanna sé það eina, er gjöri manninn sáluhólpinn. Vér neitum algerlega allri endurlausn fyrir pínu eða dauða, kjöt eða blóð Jesú Jósefssonar. Þá kenning, að guð faðirinn skuli taka elskulegasta barnið sitt og fremja glæp á því, að hann skuli rjúfa lögmál kærleikans, lögmál réttlætisins, að hann skuli ekki hafa verið vitrari en svo í stjórn sinni á heiminum, að hann þyrfti að taka til þessa neyðarúrræðis, — það álítum vér svívirðu á guði og niðurlæging á manninum, og því er hún andstyggileg í augum vorum, þessi kenning. Og ef vér berum hana saman við kenning Krists um hinn glataða son, þá sjáum vér, að það hefir aldrei verið kenning Krists; enda hafði Kristur æðri hugmyndir um föðurinn en svo. Undir eins og faðirinn veit, að hinn glataði sonur er á leiðinni heim, þá hleypur hann á móti honum langar leiðir og fagnar honum. En, ef að sagan ætti að fyrirmynda hina sáluhjálplegu trú kyrkjunnar, þá hefði faðirinn átt að deyða soninn, sem heima var, eða kvelja hann að minsta kosti, til þess að geta tekið hinn týnda soninn í sátt við sig aftur.

*SYNDAFALLIÐ.* Sagan um fall Adams og Evu, álítum vér að sé skáldleg hugmynd um það, hvernig hið illa hafi til orðið í heiminum, og að Gyðingar hafi fengið hugmynd þessa frá þjóðunum í Euphratsdalnum, en skoðun eða hugmynd þessari erum vér alveg mótfallnir. Vér trúum því, að maðurinn hafi aldrei fullkominn verið, heldur þvert á móti mjög ófullkominn í fyrstu, að hann hafi einlægt verið að falla, að hann sé einlægt að reisa sig við aftur, að hann sé einlægt að betrast og fullkomnast, að hann hafi verið á jörðunni um tugi eða hundruð þúsundir ára, og

að aldrei hafi mannkynið í heild sinni verið jafn gott eða viturt eða fullkomið, sem einmitt nú.

*ENDURGJALD.* Vér trúum því, að hegning komi fyrir hvert hið minsta afbrot, og laun fyrir hvert einasta góðverk; en hegningin getur ekki verið gjörræðisfull, getur t. d. ekki verið eilífar kvalir, því það væri djöfullegt. Hegningin hlýtur að samsvara afbrotinu, annars væri hún eigi réttlát. Hún er ekki lögð á mann í hefndarskyni, heldur af föðurlegri ást, til þess að betra manninn. Hegningin á að venja menn af því að brjóta.

*HIMINN OG HELVÍTI.* Kenningunni um eilíft helvíti forköstum vér skilyrðislaust, og teljum það að svívirða guð, að halda henni fram. Væri hún sönn, þá væri farsæld í öðru lífi óhugsanleg, því að enginn maður er svo vondur eða gjörspiltur, að honum gæti liðið vel annars heims, ef hann vissi af helming, eða meira en helming, af öllu mannkyninu í kvölum þeim, er engan enda tækju, hvort sem þessar kvalir væru andlegar eða líkamlegar. Menn eru nú svo heimskir og æstir af trúarofsa, að þeir hugsa að þeir mundu þola það, en vér höfum ekki svo djöfullegar hugmyndir um mannlegt eðli. Vér trúum, að lífið annars heims stjórnist af lögum réttlætisins og kærleikans, að vera sú, er vér köllum "föður," verði elskulegur faðir barna sinna þar, engu síður en hér. Þeir sem góðir eru hér, öðlast gott hlutskifti þar; þeir sem í syndunum deyja hér, taka út hegningu fyrir brot sín, en hegningin kennir þeim að sigra þau.

*TRÚ.* Vér trúum á hið góða, á manninn, að hann eigi gott hlutskifti fyrir höndum, á sannleikann, á skylduna, á góð og elskuleg verk. Það er vor sáluhjálplega trú. Vér trúum því, að því meira gott sem maðurinn geri af ást til hins góða, því velþóknanlegri sé hann guði, hvort sem hann er heiðinn eða kristinn.

GUÐSDÝRKUN OG KÆRLEIKI. Vér trúnm, að það sé manniuum jafn eðlilegt, að dýrka guð, sem að hugsa, en fullkomin guðsdýrkun innibindur aðdáun og virðing fyrír öllu því, sem er hreint og elskulegt og háfleygt og fagurt. Hver sem í sannleika elskar guð, hlýtur að elska alla menn. Sá dýrkar guð best, sem er gagnlegastnr bæði heiminum og sjálfum sér, sem lifir eftir lögmáli náttúrunnar, samkvæmt hinum líkamlegu, andlegu og siðferðislegu lögum heimsins.

SAFNAÐARLÍF. Grundvöllurinn fyrir öllu safnaðarlífi álítum vér ekki að séu játningar neinar, heldur bræðralag, sú hugmynd, að menn eigi hver og einn að leggja fram sinn skerf, til þess að efla

siðgæði, útbreiða sannar og háleitar hugmyndir, efla góða breytni, í stuttu máli, lyfta sem flestum upp á æðra, andlegt og siðferðislegt stig.

VÍSINDI OG TRÚ. Í rauninni geta vísindi og trú ekki verið hvort öðru andstæð, sé svo, þá er annaðhvoit rangt,. Þó að erfitt hafi gengið, hafa vísiudin hreinsað trúna frá margri skaðlegri og svívirðilegri hjátrú og villum. Öll sú trú, sem stríðír á móti vísindunum, er röng og ætti að eyðast sem fyrst. Alt til þessa hefir lítið samkomulag verið milli trúar og vísinda, af því að trúin hefir verið röng, en fyrir vísindin er það, að trúin kastar einni villunni á eftir annari. Vér unitarar viljum samrýma trú og vísindi sem mögulegt er.

ÖNNUR TRÚBRÖGÐ. Þau trúbrögð, sem fylla manninn göfugustum og háleitustum hugmyndum, eru best, því að göfugar og háleitar hugmyndir skapa góða breytni, góð og elskuleg verk. Engin trúbrögð eru með öllu röng, því að í öllum felst þó einhver neisti sannleikans, en mjög eru þau mismunandi, og lítið bæta sum þeirra manninn; þau sem gefa mönnum grimmar og heiftarfullar hugmyndir um hina æðstu veru, eyðileggja hinar veglegustu tilfinningar mannsins og spilla honum. Hann hefði orðið betri maður, en hann reyndist, ef að hann hefði aldrei þekt þessar hugmyndir.

Þetta hið framanskráða er ekki bindandi fyrir nokkurn unitara, því að, eins og áður er getið, höfum vér enga ákveðna játningu, og geta því sumir verið í flokki vorum, sem eina eður aðra skoðun hafa frábrugðna. En þetta framanskráða eru skoðanir alls þorrans af Unitörum.



# Kyrkjan og vísindin.

Það er auðséð, að þeir eru farnir að finna það nú hinir lútersku klerkar, hvar skórinn kreppir. Þeir finna það, að grundvöllurinn er farinn að skjálfa, sem þeir og hin "rétt-trúaða" kyrkja stendur á, sem hún dregur anda sinn fyrir, því að nú eru úti allar klær, nú eru öll vopn á lofti, til að reyna, að verja bókstaflegan innblástur ritningarinnar, að reyna, að hrekja alt það, er á einn eður annan hátt miðar til þess, að hrinda guðdómlegum innblæstri hennar. Þeir

sjá það, og það sjá allir, sem nokkuð hugsa út í það, að á því *einu* er kyrkjan bygð; hún hefir engan annan grundvöll. Ef að þessi grundvöllur raskast, ef að hann er sýndur óáreiðanlegur, þá hafa þeir alla tíð verið að fara með bull og endileysu, en sé hann réttur, þá er alt gott og gilt, sem þeir segja.

Eitt af því, sem kippir grunninum undan þessari byggingu þeirra, er það, sem vísindin hafa uppgötvað um sköpun heimsins, um uppruna mansins, um ástand mannkynsins og dýra og jurtaríkisins í sambandi við það, sem um þetta er sagt í þessu "guðs opinberaða orði," ritningunni. Því að vísindin neita því, að þessum hlutum sé þannig varið, sem ritningin segir frá; þau segja, að ritningin fari þar með bull og endileysu, og þar af leiði það, að hún geti ekki verið guðs orð, því að guðs orð hljóti ætíð að vera sannleikanum samkvæmt.

Til þess að halda skildi fyrir trú sinni, til þess að reyna að draga hana og sjálfan sig upp úr feni því, sem hvorutveggja er í fallið, er nú séra Friðrik Bergmann að gera tilraun til að hrekja Hafnarstúdentana. Þeir Þorsteinn Erlingsson, Þorsteinn Gíslason og Helgi Pétursson hafa stundum brugðið beittum sverðum og veitt kyrkju og kreddum þau holundar og mergundar sár, sem svíða sáran og éta sig inn að hjartarótum kyrkjunnar.

Í Apríl nr. Sameiningarinnar þ. á., kemur séra Friðrik fram enn einu sinni, og er heldur hróðugur og þykist gersamlega hrekja Helga Pétursson, kandidat, í Khöfn, og svo hróðugur er hann af því, að hann fer að hælast um, að Helgi Pétursson hafi ekki með einu orði raskað því, sem hann hafi sagt um Darwins tilgátuna.

Ég ætla nú ekki að fara að taka svari Helga Péturssonar; þeir hafa sýnt það Hafnarstúdentar, að þeir eru fullfærir um það sjálfir; en ég ætla að eins að benda á fáein atriði, sem sýna, hve gjörsamlega klerkunum mistekst það, að þvo sig hreina og bjarga málefni sínu, og svo hitt, hvílíku ryki þeim er gjarnt að slá í augu manna.

Þeir hafa fundið það, að Darwins tilgátan snerti bókstaflegt gildi ritningarinnar, ef hún væri rétt, og svo fara þeir, eins og séra Friðrik, að hamast á því, að milliliðurinn milli mannsins og dýranna sé ekki fundinn enn. En það er heldur enginn að segja það, að hann sé fundinn. Og það dregur ekkert úr kenningum Darwins þótt hann sé það ekki. Kenning Darwins er tilgáta, skynsamleg logisk tilgáta og ekkert meir, en sem allur þorri mentaðra manna hefir fallist á. En nú kemur rúsínan í því. Til þess að hrekja það, sem aldrei hefir verið haldið fram með neinum ákafa, sem menn

játa allir, að ekki sé fullsannað, en sem þó getur verið hin eina skynsamlega tilgáta alt fyrir það, — til þess að hrekja þetta, sem hann í rauninni aldrei þurfti að hrekja, fer séra Friðrik að taka til dæmis kenningu próf. Wirchow's, og eitt af því er það, að mannleifar þær, sem kunnar séu, geti ekki eldri verið en 7000 til 10000 ára gamlar. En um leið og presturinn notar þetta sem sönnun, skrifar undir það og játar, þá fellir hann með því dauðadóminn yfir sínum eigin kenningum. Með því er hann búinn að játa, að ritningin sé röng og óáreiðanleg. Því að vitanlega á heimurinn, eftir hennar kenning, að vera yngri en 6000 ára. Ég býst ekki við, að klerkar beri það fram, að maðurinn hafi verið skapaður á undan jörðunni. En þegar þeir viðurkenna, (ég tala hér að eins um það sem þeir viðurkenna), að einu til fjórum þúsundum ára áður en ritningin segir að maður hafi skapast á jörðina, hafi menn verið til á henni hér og hvar, því að víðar hafa fundist gamlar leifar manna en í Neanderthal, þá eru þeir þar með búnir að eyðileggja sitt málefni. Þeim hinum sömu væri miklu betra að snerta ekki pennann, en að eyðileggja sjálfa sig og sitt málefni með því, er þeir skrifa. En þegar þeir svo fara að hælast um og hrósa happi yfir þessu, þá kastar nú tólfunum, og sýnir það, hve andlega fátækir þeir eru, og svo hitt, að það er ekki hægt að verja þennan málstað. Þetta á að heita vörn fyrir kyrkjunni, en það er til að leiða hana á helvegu. Það kann að geta slegið ryki í augu þeim, sem svo sem ekkert vita og ekkert hugsa, sem láta blindandi leiðast eins og sauðir til rúnings; en þá sem opin hafa augun villir það ekki. Það er að eins glamur, að látast sanna eitthvað, tilraun til þess að láta menn halda, að þeir séu "góðir fyrir sinn hatt," þessir piltar.

Hvernig fer nú nú séra Friðrik, eða þeir hinir prestarnir, að því, að sanna þá sáluhjálplegu kenning Nýja Testam., að "dauðinn hafi komið í heiminn fyrir syndina?" Eftir því eiga engin dýr og engar plöntur að hafa dáið allan þann áratíma, áður en maðurinn kom á jörðina. En vill nú séra Friðrik, og þeir aðrir, að eins líta á kolin, sem þeir brenna á vetrum? Hvernig hafa plönturnar og dýrin, sem í þeim finnast, komist í þetta ástand? Skyldu þau ekki hafa dáið? Eða hvernig fer hann að gera grein fyrir því, að ef að vér lítum til himins á kvöldin til stjarnanna yfir höfðum vorum, og sjáum þar stjörnur, sem vér með *mathematiskri vissu* getum fullyrt, að hafi verið til, skapaðar fyrir hundrað þúsundum, sumar kannske fyrir milliónum ára, en þó segir ritningin þær ekki fullra 6000 ára? Tii þess að gera hið fyrra, verður hann að neita náttúruvísindunum

og segja, að þau séu bull og vitleysa; og til þess að halda fram hinu síðara, eða neita þessari mathematisku sönnun móti áreiðanleik ritningarinnar, sem hér er tilfærð, verður hann að neita gildi talnanna, neita því, að tveir og tveir séu fjórir, tvisvar fjórir átta o. s. frv. Þessi mathematiska sönnun er í því fólgin, að ljósið er vissan tíma á leiðinni um geyminn; rúma sekúndu frá tunglinu, 8—9 mínútur frá sólunni, 3—4 ár frá næstu sólunum, öðrum en okkar, 100,000 til millíón ára frá sumum sólum þeim, er sjást í góðum stjörnukíkirum. Og þegar vér því sjáum þær nú á himninum, þá vitum vér, að þær ómögulega geta yngri verið, en sem svarar tíma þeim, er ljósglampinn hefir verið á leiðinni frá þeim, sem í sumum tilfellum er hundrað þúsundir ára, og jafnvel miklu meira; en ritningin segir 6000!

Ég læt hér staðar numið að sinni, en vona bráðlega að geta sýnt sannanir þeirra klerkanna og dogmur kyrkjunnar í sínu rétta ljósi. Það hefir af ástæðum dregist að fjalla um "Aldamót" og "Sam.", en nú mun það bráðum gjört.



# Í þrasi við páfann.

Eftir Jón Kjærnested.

---

Af hugaðri talsvert, en heiðinni þjóð
mér hermd voru djörfungar merki.
Ég fært hefi orð þau úr lesmáli' í ljóð,
þau lúta að geistlegu verki.

Það var í þann tíma sem postulinn Páll
og páfinn oft hnefana stælti,
að fornvitur heiðingi, frægur sem Njáll,
við félaga sína' eitt sinn mælti:

Hjá okkur er seztur að svartmunkur einn
með sorglega þreytandi jarmi.
En honum ei lúta mun heiðingi neinn,
við höfum vorn leiðtoga' í barmi.

Hann talar um kristninnar krossmerki hátt
og kyrkju hann reisir í landi.
Hann gumar og mikið um geistlegan mátt,
í guðsríki' að komast er vandi.

Hann talar um auðmýkt, hann talar um vé,
og tónar með andagift ríka.
Hann vill að við helzt allir krjúpum á kné,
og kyssum á fótskör hans líka.

Ef honum við segjum í brjósti' oss hvað býr,
þá bannfærir okkur sá snáfi.
Hann segir við okkur, þá alls ekki hýr :
'Þið eigið að vita' ég er páfi.'

Oss innrætt er hræsni, sem öld spillir mest,
hún er mest frá kyrkjunni runnin.
Að rífa' af sér þögnina' og brynjast er bezt,
og berjast og opna' á sér munninn.

Hér skilmast í guðs nafni skynhelgir menn,
og skarplega' er gengið að verki.
Því Satan og prestar í sameining enn
oss sýna hin grimmustu merki.

Þeir fleyta sér á því að flaðra við drótt
og flagga með krossmark í stafni.
Og fólkinu ógna með eilífri nótt,
og ólmast í kyrkjunnar nafni.

Nú dynja' á þeim óhlífið dómsorðin örg
sem djarflega hjátrúnni neita.
Í kyrkjunni standa enn meinvætti mörg
sem merja þarf sundur og breyta.

Er rétt gert að hlífa þeim fjandmanna flokk
sem flaggar með hræsninnar skildi ?
Í okkur þeir hanga sem úlfar í skrokk
og auðvitað sýna' enga mildi.

Mér finst mikið vanséð hvort reynist það rétt,
í róstum af kyrkjunnar hendi,
að hlífa mjög einþykkri embættisstétt,
þótt enn hana hjátrúin verndi.

Mér finst alveg rétt gert að koma við kaun
sem kyrkjuna' í heild sinni þjáir,
þótt leggi af kýli því dámillan daun
og djarflega vogi það fáir.

# Frá lesborðinu.

## FRJÁLSLYNDI.

Jóhannes L. L. Jóhannesson hefir tekið til máls í Apríl númeri Kyrkjublaðsins, og gert tilraun til þess að hnekkja sumum atriðum í grein Þorsteins Gíslasonar ("vísindi og trú"), er kom út í Sunnanfara fyrir nokkru og flestum er minnisstæð. En nú stendur svo á, að ritstjóri Sunnanfara er búinn að segja, að hann hafi þegar fengið nóg af trúarbragða-hugleiðingum, og er því skotið loku fyrir, að Þorsteinn fái að svara þar, og allbúið, að fleiri íslenzk blöð séu lokuð fyrir honum. En þá býður ritstj. Kyrkjublaðsins, séra Þórhallur Bjarnason, ótilkvaddur, Þorsteini Gíslasyni að hann skuli rúm fá í blaði sínu til að svara, ef hann vilji. Þetta er sannarlega heiðarlega og frjálslyndislega gjört. Og bæði ég og margir landar hér vestra, vottum ritstjóranum þakkir fyrir. Ef að þetta viðgengist víðar, þá þyrfti ekki að kvarta yfir því, að kyrkjan leitaðist við að varna alþýðu að skoða og rannsaka, eða að hún vildi leiða menn blindandi. Áður hefir verið kvartað yfir því, að kyrkjublöðin væru ófrjálslyndari en önnur blöð, en hér er því snúið við, þar sem hið íslenzka Kyrkjublað sýnir sig frjálslyndara en öll hin blöðin. En þetta er í samræmi við alla stefnu séra Þórhalla, og eins undanfarna stefnu blaðsins. Það hefir ekki markað sér það starf, að lemja inn í höfuð mönnum einni ákveðinni skoðun og útiloka allar aðrar skoðanir, heldur einmitt leyft misjöfnum skoðunum að koma fram. En það ætlum vér orsaki það, að ekki hefir verið tekið alment eftir þessu, að skoðanir hafa verið fremur líkar meðal manna. Hinar andvígu skoðanir hafa ekki verið fyrir hendi. — Sunnanfara hefir verið tekið hér vel mann á meðal, og þótt gott blað, en þó munu einmitt trúmálagreinarnar hafa þótt best ritaðar af greinum þeim, er birst hafa í blaðinu, og er undarlegt, að ritstjóranum skuli leiðast það.

Ritstjóri Kyrkjublaðsins verðskuldar það sannarlega, að vér Vestur-Íslendingar gefum blaði hans meiri gaum, en hingað til hefir verið.

---

# BUDDHATRÚ.

Kristniboðsblað eitt "The Thibetan," fer þessum orðum um Buddhatrú nýlega :

Eitt af því, sem einkennilegt er við öld þessa, er það, að nú er sem nýtt fjör og líf sé að færast í Buddhatrúna, og þegar menn líta á starfsemi lærisveina hans þessa mikla Indlandskennara í Austurlöndum, og að nokkru leyti einnig í hinum vestlægari löndum, þá geta menn alls ekki verið samdóma því, er Mr. W. S. Lilie segir, "að Buddhatrú sé á afturfararskeiði." Hvað sem því líður, er menn hafa sagt, að á umliðnum tíma hafi henni verið að hrörna, þá liggur það nú í augum uppi, að hún er að drekka í sig líf og fjör. Hún er risin upp að nýju og trúboðunaráhugi mikill hefir nú gripið alla Buddhatrúarmenn bæði á Indlandi, Siam, Japan, Ceylon, China og öðrum löndum.

Nýtt félag er myndað, að nafni: "Maha Bodhi félagið," undir forustu stór-lamaans í Thibet, og er tilgangur þess, að boða öllum þjóðum kenningar Buddha,að reisa að nýju hið helga tré við Buddhagaya, þar sem Buddha öðlaðist hina guðdómlegu speki.

"Á þessum þríhelga stað," segir Maha Bodhi félagið, "er áformað að reisa klaustur handa munkum frá Thibet, Ceylon, China, Japan, Burmah, Siam, Cambodia, Chittagong, Nepal, Corea og Aracan. Þar skyldi skóla stofna til þess að kenna ungum mönnum, siðferðisgóðum og vönduðum, af hvaða þjóð, eða úr hvaða landi sem væri, til þess að boða í öðrum löndum boðskap friðarins og bróðurlegs kærleika, sem hinn guðdómlegi kennari, Buddha, hefir kent fyrir 2400 árum síðan (600 árum á undan Kristi). Er skorað á Buddhatrúarmenn í öllum löndum, að vinna að verki þessu. Því er og lýst yfir, að nú sé tíminn kominn til þess, að dreifa kenningum Buddha um Ameríku og Vestur-Indland, og skorað á unga menn, að gefa sig fram til námsins. Aðalsetur félagsins er í Calcutta, og meðal heiðursmeðlima þess og starfandi félaga eru nöfn margra ágætra fræðimanna, bæði í Evrópu og Asíu. Þar á meðal prófessor Sir Edwin Arnold, prófessor Rhys Davids og Col. Olcott.

Aðalritari félagsins er herra H. Dharmapala, hinn gáfaði indverski Buddhatrúarmaður, sem mætti á trúmálaþinginu í Chicago fyrir hönd trúbræðra sinna. Síðan hann kom heim aftur til Indlands og Ceylon, hefir hann vakið hið ákafasta fjör og áhuga í trúmálum meðal landa sinna. Meðal annars hefir hann haft þau áhrif á trúbræður sína í Ceylon, að konur af Buddhaflokki hafa lagt upp í

pílagrímsför til skrínsins helga í Buddha-gaya og er það hið fyrsta skifti um fleiri aldir, að slíkt hafi fyrir komið."

Buddhatrúin er í fullu fjöri, og er vissulega þörf á því, að trúboð kristinna manna gefi henni gætur. Enginn kristniboði ætti lengur að vera fáfróður um kenningar, viðtektir og störf trúar þessarar sem er að keppa við kristnina.

Herra F. H. Balfour talaði og á líkan hátt um trú þessa í fyrirlestri einum, er hann nýlega hélt. Hann segir meðal annars, að "áður hafi Buddhatrú verið sofandi, en nú sé hún vöknuð."

"Í Kína," segir hann, "eru Buddhaprestar teknir af hinum lægsta flokki mannfélagsins, en í Japan er það öðruvísi. Í prestlegri stöðu þar eru menn af hinum merkustu og ríkustu ættum landsins, ágætlega mentaðir, gagnfróðir í heimspeki Asíu og Evrópu, og þekkja eins mikið til kristinna trúbragða, eins og ég og þú. Hvar ætlið þér að til sé hið fullkomnasta bókasafn um kristna trú í Japan —bókasafn, sem hefir öll hin merkustu deilurit um trúmál, bæði fyr og nú? Ætlið þér að það sé í einhverjum guðfræðisskóla kristniboðanna? Nei, vissulega ekki. Það er í musteri hinnar endurbættu Buddhatrúar í Kyoto. Buddhatrúarmenn skilja tímanna tákn, og berjast fyrir trú sinni og lífi."

Þetta er íhugunarvert. Kristnir menn ætla sér að vaða yfir löndin og brjóta undir sig öll trúbrögð, og leggja þau að fótum Krists. Þeir sjá ekkert annað en sína eigin trú, vita ekki um neitt annað en sína eigin trú, og kemur ekki til hugar að líta á, hvaða trú aðrir hafa, eða hvort að nokkuð sé gott í henni, og því síður bera hana saman við sína trú. Hvaða hugmyndir hafa prestarnir okkar um trúbrögð Austurlanda? Þeir þekkja þau ekki. Á prestaskólanum íslenzka var aldrei minst á önnur trúbrögð en hin kristnu, og guðfræðingar, sem af þeim skóla koma, mega standa sem glópar, þegar talað er um önnur trúbrögð, ef þeir ekki hafa snapað sér einhverja þekkingu um það sjálfir, sem sjaldnast er. Af þessari glópsku og vanþekkingu kemur það, að þegar "andinn grípur þá," þá færast þeir í ásmegin og vilja fara að boða kristni, hvað sem það kostar, mönnum, sem oft eru miklu betur siðaðir, hafa miklu háfleygari hugmyndir, en þeir sjálfir. Væri þeim ekki betra að gæta að því, að Sisyfusar-bjargið: eilíf fordæming, sem þeir eru að burðast með, velti ekki ekki ofan á þá og merji þá undir sér. Væri þeim ekki betra, að bera saman sína eigin trú við aðrar, og skoða hver væri guðdómlegri, hver væri háleitari, hver væri sannari. Ef að þeir gerðu meira af því, þá færi minkandi ofsóknar og heiftar-and-

inn, sem svo einkennir þá; þá mundu þeir kannske hika sér við að narra fé til kristniboðs út úr fáfróðum trúgjörnum, almenningi.

Þeir eru og einlægt að reyna að berja það inn í menn, að kristnin sé að útbreiðast, en hér kemur annar trúflokkur, með hundruð millíónir manna, og það flokkur, sem þekkir kristna trú miklu betur en kristnir menn þekkja þeirra trú, og finnur svo mikla andlega fátækt kristinna manna, að þeir aumkast yfir þá, og vilja fara að boða þeim betri trú. Er það ekki hálfskrítið.

---

## HIN FYRSTA ÆRLEGA ÞÝÐING Á 1. BÓK MÓESESAR.

Málfræðingum og biblíufræðingum hefir nú komið saman um það, að hið hebreska nafn á guði: Elohim, sé fleirtala af orðinu: Eloah, sem þýðir: guð. Í hinum ýmsu biblíuþýðingum er Elohim lagt út: guð, en það er rangt og ætti að vera: guðir eða guðirnir. Þetta atriði er ákaflega þýðingarmikið, því að á þessu hefir alt trúarkerfi Gyðinga, og svo síðar kristinna manna, verið bygt.

Dr. William Smith, L. L. D., frá háskólanum í London, segir í ritningar-orðbók sinni, undir orðinu Guð: "Í ritningu Hebrea eru höfð tvö orð um hina guðdómlegu veru, er annað Elohim, en hitt Jehovah; er Elohim lagt út: guð, í hinni ensku biblíuþýðingu, en Jehovah: drottinn. Elohim er fleirtala af orðinu Eloah (á Arabisku: Allah) og kemur eintölumynd orðs þessa að eins fyrir í skáldskap og á fám stöðum í seinni tíma hebresku. Menn hafa deilt mjög um fleirtölumyndina Elohim. Hafa sumir skapað sér það, að það ætti að tákna þrenninguna, en nú er varla nokkur vísindamaður á þeirri skoðun."

Þetta er nú vitnisburður hinna rétttrúuðu manna, og sjáum vér það fljótt, að ef að vér leggjum orðið Elohim rétt út, þá þýðir það: guðir, en af því sjáum vér, að Gyðingar hafa upphaflega ekki trúað á einn guð, heldur marga guði, enda ólust þeir upp hjá Egyptum, sem trúðu á marga guði, og einmitt þá förum vér að skilja betur í því, hvernig á því stóð, að þeir voru sí og æ að dýrka guði þjóðanna umhverfis sig. Og á þessari fjölgyðishugmynd hefir "rétttrúnaðurinn" bygt trúarkerfi sitt.

Vér skulum nú sjá hvernig það tekur sig út, að þýða eins og á að vera: guðir en ekki guð, þar sem orðið Elohim stendur.

1. "Í upphafi sköpuðu guðirnir himin og jörð."
2. "Og jörðin var í eyði og tóm og myrkur yfir djúpinu, en andi guðanna svam yfir vötnunum."
3. "Og guðirnir sögðu verði ljós og það varð ljós."
4. "Og guðirnir sáu ljósið, að það var gott, og guðirnir greindu ljósið frá myrkrinu."
5. "Og guðirnir kölluðu ljósið dag, en myrkrið nótt."
6. "Og guðirnir sögðu........", o. s. frv., og svo er það í hverju vessi aftur að 27. v., að einlægt eru *guðirnir* látnir segja þetta, gera þetta. En í 26. og 27. vessinu er það enn skýrara. Þar hugsar söguhöfundur þessi sér tvo guði, karlguð og kvennguð, því að hann segir: "Þannig sköpuðu guðirnir manninn i *sinni mynd*, í mynd guðanna sköpuðu þeir hann, karlmann og kvennmann sköpuðu þeir."

Þetta og annað eins sýnir hvorttveggja: ráðvendni þeirra, sem þýtt hafa sögu þessa, ráðvendni klerka þeirra, er hebresku hafa lært og hafa því hlotið að vita það, að hér átti að leggja út: guðir, en ekki guð, og svo sýnir það einnig hitt, hversu mikils virði hinn guðdómlegi innblástur ritningarinnar er. — Eftir TRUTH SEEKER.

## Um biblíuna.

Dr. Kaye, kongregationalista-prestur í Edgerton, Wisconsin, ætlar að skrifa á móti fyrirlestri Ingersolls: "Um biblíuna" í ritið FREE THOUGHT MAGAZINE, er H. L. Green í Chicago gefur út, en Dr. Felix L. Oswold ætlar að svara honum aftur. Þó að Unitarar yfir höfuð viti hvernig mál þau standa, kynni margur að hafa gaman af að sjá atburði og brögð í glímu þeirri, og því hefi ég getið þessa, ef að menn vildu fá sér blaðið.

LEIÐRÉTTING. — Í kvæðinu "Trúin á Krist" eftir J. K., í Maí-númeri Dagsbrúnar hefir misprentast í 2. erindi 4. línu: fótspor fyrir sporin (á að vera: "sem lærisveinn feta í sporin þín"). Og í g. er., 3. l.: þú fyrir þín (á að vera: "þín lögspeki fögur o. s. frv.")

Gefið út af Únitarasöfnuðinum í Winnipeg.
Ritstjóri: MAGNÚS J. SKAPTASON.
Féhirðir og afgreiðslumaður: MAGNÚS PÉTURSSON.
601 Ross Ave., Winnipeg.

HEIMSKRINGLA PRTG. & PUBL. CO.